# Nokkrar athugasemdir

við

# „Hagskýrslur frá Íslendingabyggðum í Canada

árin 1891—1892 eptir B. L. Baldwinson".

Það er kunnugt, að herra Baldvin L. Baldvinsson hefur gefið út hjer í Reykjavík allmikinn bækling, sem hann kallar *„Hagskýrslur frá Íslendingabyggðum í Canada árin 1891—1892"*.

Í formálanum fyrir skýrslum þessum, bls. 1, er það tekið fram, að það hafi verið ?dreginn efi á það á Íslandi, að efnahagur landsmanna þeirra, er búa fyrir vestan haf, sje eins góður og hann í raun og veru er, og kveðst höfundur, til að rannsaka þetta ýtarlega, hafa ferðazt um allar nýlendur Íslendinga í Canada, heimsótt hvern einstakan landnema, yfirlitið eignir hans og ?metið söluverð þeirra, grennslazt eptir skuldum þeim, er landnemar kynnu að vera í, og fært svo allt saman í greinilega skýrslu.

Það eru þessar skýrslur, sem hann hefur nú gefið út, og látið, að sögn, óspart berast út um landið.

Eins og höf. tekur fram, á það að vera tilgangur hans með skýrslunum, að sanna alþýðu hjer á landi *svart á hvítu*, að efi heimar um velmegun landa í Vesturheimi sje ekki á rjettum rökum byggður.

Því verður nú ekki neitað, að ef skýrslurnar væru áreiðanlegar, væru þær einkarvel fallnar til þess, að taka af öll tvímæli. Því hvað getur verið áreiðanlegra en framtal hvers bónda á eigum sínum og skuldum undir umsjón höf. sjálfs? Fljótt á litið virðast skýrslurnar einnig all-nákvæmar, og þótt það kynni að vekja einhvern grun um óáreiðanlegleik þeirra, að flestallir ísl. bændur í Canada, jafnvel frumbýlingar, sem vitanlega ekki áttu *einn eyri* í eigu sinni, þegar þeir komu þangað, eru nú orðnir viðunanlega efnaðir, — sumir einda ríkir —, þá getur það eitt út af fyrir sig eigi beinlínis hnekkt skýrslunum eða vefengt gildi þeirra.

Höfundur gefur það og fyllilega í skyn, að ekki sje ástæða til að efast um áreiðanlegleik skýrslnanna; því hann segist hafa *sjálfur* heimsótt hvern einstakan landnema og yfirlitið eigur hans. Má því ætla, að honum sje mál þetta vel kunnugt, og ekki sje til mikils fyrir neinn hjer að fara langt út í þá sálina að vefengja skýrslur hans.

Samt sem áður hafa þó heyrzt ýmsar raddir í Reykjavíkurblöðunum í þá átt, að skýrslurnar ekki mundu sem áreiðanlegastar. Er það einkum einn landi, sem búsettur er í Winnipeg, en brá sjer hingað snöggva ferð með síðustu póstskipsferð, sem hefur gefið athugaverðar og all-einkennilegar upplýsingar um 3 bændur í Þingvallanýlendunni, sem skýrslan telur allvel efnaða (sbr. Ísafold 19. árg. 94. blað). — Bændur þessir eru: Jens Laxdal (nr. 4 í Þingvallanýlendu), Klemens Jónsson (nr. 71) og Böðvar Ólafsson (nr. 79). Segir landi þessi svo frá, að Jens og Klemens hafi í aprílmánuði í vor, er var — o: rúmum 4 mánuðum eptir að skýrslurnar voru teknar — komið allslausir til Winnipeg og orðið að hafa þar ofan af fyrir sjer með daglaunavinnu, því að allt hafi verið tekið af þeim upp í skuldir. En hinn þriðji, Böðvar Ólafsson, hafi haft við orð, *að hanga á jörð sinni meðan hann væri að jeta upp stjórnarlánið*.

Þegar þetta er borið saman við skýrslurnar, þá kemur það í ljós, að eitthvað hlýtur að vera bogið við þær. Jens er talinn að eiga samtals í lausafje og fasteign 1211 doll. virði, en skulda að eins 75 doll., og Klemens segja skýrslurnar að eigi alls 1245 doll. í löndum og lausum aurum, en skuldi 400 doll. Fyrst að nú aleiga þessara manna var tekin af þeim upp í skuldir, þá er það bert, að annaðhvort hafa þeir skuldað meira — *miklu* meira —, en skýrslurnar segja, eða þá að eigur þeirra hafa *hvergi nándar nærri* verið eins mikils virði og þær gefa í skyn. — Um Böðvar Ólafsson, sem skýrslan segir,

Björnsson 21½ ekru: nr. 99 Björn Jónsson 3½ ekru, og nr. 109 Eggert Jónsson 70½ ekru. Í Red Deer-nýlendu á nr. 12 Jón Pjetursson alls 5 ekrur plægðar; hann sáir höfrum í 5 ekrur og byggi í 2 ekrur. Í Nýja-Íslandi yrkja þeir nr. 39 Jón Jónasson og nr. 85. Magnús Jónasson ¼ ekru hver fram yfir land það plægt, sem þeim er eignað. Í Vatnsdals-nýlendu á efnaðasti bóndinn, sem þar er talinn, alls 15 ekrur plægðar, en skýrslan segir, þó að hann 1891 hafi notað 20 ekrur undir hveiti, 5 ekrur undir hafra og ½ ekru undir garðávexti. Mismunur 10½ ekra.

Hvernig stendur nú á þessum mikla mismun? Hvernig stendur á því, að í Argyle-nýlendunni einni eru það ekki minna en 300 dagsláttur, sem bændur þar eru látnir yrkja fram yfir plægða landeign? Þar til liggur að, eins það svar: að annaðhvort er ekki allt plægt land hvers bónda talið í dálkinum undir »ekrur plægðar«, eða þá að þessir menn, sem hjer hafa verið taldir, eru látnir nota meira land til akuryrkju en þeir í raun og veru gjöra. En hvort sem er, þá er það mjög svo ónákvæmt og rangt. Hagskýrslur, sem svo eru úr garði gjörðar, verða með engu móti taldar áreiðanlegar. Það er ennfremur eptirtektarvert, að fjöldi »plægðra ekra« er aptur á móti víða langt um meiri en fjöldi þeirra, sem notaður er til jarðyrkju og garðyrkju. Nr. 122 í Argyle-nýl. hefur 110 plægðar ekrur, sáir hveiti í 15 þar af, höfrum í 5 og garðávöxtum í ¼. En hvað gjörir hann þá við hinar 89¾ ekru? Svona er ástatt með langflesta bændurna. Nr. 195 í Nýja Ísl. reisti bú 1889; hefur 10 ekrur plægðar, notar að eins ¼ ekru til sáningar. Sumir virðast jafnvel, eptir skýrslunum að dæma, hafa plægðar ekrur »upp á stáss«.

Nr. 90 í Nýja Ísl. (frá 1890) hefur 8 ekrur; notar enga. Nr. 124 s. st. (frá 1876) hefur 12 ekrur; notar enga. Nr. 8 í Vatnsd. nýl. (frá 1889) hefur 20 ekrur; notar enga. Nr. 16 í Þingv. nýl. (frá 1889) hefur 6 ekrur; notar enga. N. 26 s. st. hefur 9 ekrur; notar enga til sáningar.

Skýrslurnar fara og einkennilega með nr. 225 í Nýja Ísl. (Jóh. Hannesson); sagt er, að hann eigi 3 nautgripi og 1 hest, og svo er bætt við: *Núverandi skuldir engar, og engar eigur skuldlausar!!*

En það er svo sem ekki brotið til mergjar enn og skulu nú sýnd nokkur dæmi þess.

2. Jón Friðfinnsson, nr. 49 í Argyle-nýlendu, á hvorki hús yfir höfuðið, nje gómstóran yrktan blett af landi, en hann á jarðyrkjutól, sem metin eru 2110 doll. eða segi og skrifa 6850 kr. Til hvers brúkar hann nú öll þessi tól, úr því hann í 2—3 ár ekki hefur svo mikið sem komið sjer upp dálitilli kálgarðsholu? Manni dettur ósjálfrátt í hug gamla sagan af manninum, sem ætlaði að smíða sjer bát og byrjaði á neglunni.

3. Guðrún Jónsdóttir (Storm) nr. 55 í sömu nýlendu er talin eiga 63 ekrur plægðar og er öll landeign hennar og húseign 1200 doll. virði eptir markaðsverði. Hún á ekkert annað til en þetta, ekki svo *mikið sem eina hænu*, en eigur hennar eru þó taldar alls 2712 doll. Hvaðan fær hún nú 1512 doll., úr því markaðurinn ekki gefur meira fyrir *aleigu* hennar en 1200 doll.?

4. Nr. 11 í Þingvalla-nýlendu á jarðyrkjutól fyrir 65 doll.; nr. 56 fyrir 75 doll.; nr. 89 fyrir 105 doll.; nr. 5 í Red-Deer-nýlendu fyrir 150 d. og nr. 7 í sömu nýlendu fyrir 130 doll.; nr. 21 í Nýja Íslandi fyrir 115 doll.; nr. 101 fyrir 85 doll.; nr. 190 fyrir 135 doll.; nr. 191 fyrir 160 doll.; nr. 221 fyrir 300 doll.; og nr. 226 fyrir 800 doll. Enginn af þessum mönnum á *nokkurn* blett yrktan, og það enda sumir eptir fleiri ára búskap. Annaðhvort er, að hjer er ekki rjett skýrt frá, eða þá að þessir menn eru ekki með rjettu ráði, því að öðrum kosti verður það óskiljanlegt, að menn verji mörg hundruð krónum til þess að kaupa þá muni fyrir, er þeir hafa engin minnstu not af.

5. Gestur Oddleifsson, nr. 130 í Nýja Íslandi, hefur þó plægt ¼ ekru síðan vorið 1888, sem hann sáir í garðávöxtum, og þótt hann hafi ekki komizt af með minna en 1155 kr. fyrir jarðyrkjutól til þess, þá er það þó góðra gjalda vert hjá hinu. Að vísu er hugsanlegt, að eitthvað af þessari upphæð geti verið fólgið í bát og veiðarfærum, ef hann annars hefur nokkurn útveg.

er engin þörf á, að fara svo langt út í það atriði. Nægilegt virðist að grípa hjer og hvar ofan í skýrslurnar og geta svo hins helzta.

Í athugasemdunum, aptan við skýrslurnar, tölul. 11. skýrir höf. frá verði því, er sett er á lausafje í hverri nýlendu fyrir sig. Og er það þannig:

| Nýlendur. | Kýr doll. | Ein akneyti doll. | Fullorðnar sauðkindur hver doll. | Hænsn doll. | Lönd, hver ekra án umbóta doll. |
|---|---|---|---|---|---|
| Argyle-nýlenda ... | 30 | 120 | 5 | 0.25 | markaðsverð. |
| Þingvalla-nýlenda | 35 | 140 | 7 | 0.25 | 4 |
| Red Deer-nýlenda | 35 | 130 | 3—4 | 0.25 | 5 |
| Álptavatns-nýl. ... | 35 | 120 | 5 | 0.25 | 2½ |
| Nýja-Ísland........ | 25—30 | 120 | 5 | 0.25 | 2½ |
| Vatnsdals-nýlenda | 35 | 120 | 7 | 0.25 | 5 |

*) Ungneyti, hross og svín voru í öllum nýlendunum metin eptir aldri og vænleik. Ungneyti frá 10—25 doll. Hross frá 50—200 d. og þar yfir, og svín frá 3—15 d.

Þegar reiknað er hjá hverjum einstökum bónda eptir þessari töflu og því framtali, sem skýrslurnar sýna, þá kemur það út hjá mörgum, — svo ekki sje tekið of djúpt í árinni — að upphæðin »eigur alls« verður talsvert minni en skýrslurnar segja.

Þetta skal nú sýnt með nokkrum dæmum. Og skal þá byrjað á fyrsta manninum í skýrslunum. Tölurnar dollarar, ef ekki er annars getið.

*a.* Nr. 1 í Argyle-nýlendu Eyjólfur Snædal byrjaði búskap 1881.

| | Doll. | Skuldlausar eigur eptir skýrlunum doll. | Mismunur doll. |
|---|---|---|---|
| 4 kýr á 30 doll. . . . . . . . . . . . | 120 | | |
| 7 ungneyti að meðaltali á 17,50 d. . . . . . . | 122,50 | | |
| 4 hestar — — 125 d. . . . . . . . . | 500 | | |
| 4 svín — — 9 d. . . . . . . . . | 36 | | |
| 12 kindur á 5 doll. . . . . . . . . . | 60 | | |
| 20 alifuglar á 0,25 d. . . . . . . . . | 5,00 | | |
| Land- og húseign, markaðsverð . . . . . . | 2000 | | |
| Jarðyrkjutól . . . . . . . . . . . | 552 | | |
| Eigur alls | 3395,50 | | |
| Skuldir | 1000,00 | 2965,00 | |
| Skuldlausar eigur | 2395,50 | 2395,50 | |
| Mismunur . . . . . . . . . . . | | | 569,50 |
| | | | = Kr. 2135,62 |

Sje hvert ungneyti, hestur og svín hjá þessum bónda reiknað með hæsta verði — sem þó er vitanlega engin ástæða til —, verða skuldlausar eigur hans samt 193 doll. eða kr. 723,75 minni, en þær eru taldar í skýrsl.

*b.* Nr. 14. Halldór G. Jónsson byrjaði búskap 1888:

| | Doll. | Skuldlausar eigur eptir skýrlunum doll. | Mismunur doll. |
|---|---|---|---|
| 4 kýr á 30 doll. . . . . . . . . . . | 120 | | |
| 2 uxar pr. 120 doll. . . . . . . . . . | 120 | | |
| 5 ungneyti á 17,50 doll. . . . . . . . | 87,50 | | |
| 2 hestar á 125 doll. . . . . . . . . | 250 | | |
| 4 kindur á 5 doll. . . . . . . . . . | 20 | | |
| 6 svín á 9 doll. . . . . . . . . . . | 54 | | |
| 30 alifuglar á 0,25 doll. . . . . . . . | 7,50 | | |
| Verð land- og húseignar . . . . . . . | 2400 | | |
| Jarðyrkjutól . . . . . . . . . . . | 380 | | |
| Eigur alls | 3439 | | |
| Skuldir | 1685 | 3470 | |
| Skuldlausar eigur | 1754 | 1754 | |
| Mismunur . . . . . . . . . . . | | | 1716 |
| | | | = Kr. 6435 |

Sje allt reiknað eptir hæsta verði hjá þessum bónda verða skuldlausar eigur hans samt sem áður 1492½ d. eða kr. 5596,87 minni, en skýrslan telur.

| | Doll. | Skuldlausar eigur eptir skýrslunum doll. | Mismunur doll. |
|---|---|---|---|
| c. Nr. 86 Benidikt Einarsson byrjaði búskap 1882: | | | |
| 4 hestar á 125 doll. | 500 | | |
| Verð húss- og landeignar | 1500 | | |
| Verð jarðyrkjutóla | 306 | | |
| Eigur alls | 2306 | | |
| Skuldir | 100 | 2615 | |
| Skuldlausar eigur | 2206 | 2206 | |
| Mismunur | | | 409 |
| | | | = Kr. 1533,75 |
| d. Nr. 92 Þorsteinn Jónsson byrjaði búskap 1882: | | | |
| 13 kýr á 30 doll. | 390 | | |
| 4 uxar á 60 doll. | 240 | | |
| 23 ungneyti á 17,50 doll. | 402,50 | | |
| 7 hestar á 125 doll. | 875 | | |
| 18 kindur á 5 doll. | 90 | | |
| 14 svín á 9 doll. | 126 | | |
| 100 alifuglar á 0,25 doll. | 25 | | |
| Verð húss- og landeignar | 7000 | | |
| Verð jarðyrkjutóla | 1160 | | |
| Eignir alls | 10308,50 | | |
| Skuldir | 1000 | 12170 | |
| Skuldlausar eigur | 9308,50 | 9308,50 | |
| Mismunur | | | 2861½ |
| | | | = Kr. 10730,62 |
| e. Nr. 101 og 102, í Þingvn. Eiríkur Bjarnason og Oddný Þórðardóttir: | | | |
| 3 kýr á 35 doll. | 105 | | |
| 2 uxar á 70 doll. | 140 | | |
| 7 ungneyti á 17,50 doll. | 122,50 | | |
| 1 hestur á 125 doll. | 125 | | |
| 5 kindur á 7 doll. | 35 | | |
| 1 svín á 9 doll. | 9 | | |
| 6 alifuglar á 0,25 doll. | 1,50 | | |
| Verð húss og landeignar | 1500 | | |
| — jarðyrkjutóla | 138 | | |
| Eigur alls | 2176 | | |
| Skuldir | 300 | 2020 | |
| Skuldlausar eigur | 1876 | 1876 | |
| Mismunur | | | 144 |
| | | | = Kr. 540 |
| f. Nr. 122., Björn Þorleifsson, byrjaði búskap 1892: | | | |
| 2 kýr á 35 doll. | 70 | | |
| Verð húss og landeignar | 640 | | |
| Skuldlausar eigur alls | 710 | 730 | |
| Mismunur | | | 20 |
| | | | = Kr. 75 |

| | Doll. | Skuldlausar eigur eptir skýrslunum doll. | Mismunur doll. |
|---|---|---|---|
| g. Í Red Deer-nýlendu. | | | |
| Nr. 39, Gunnlaugur Sigurðsson, byrjaði búskap 1891: | | | |
| 3 kýr á 35 doll. | 105 | | |
| 2 ungneyti á 17,50 | 35 | | |
| 2 hestar á 125 doll. | 250 | 1000 | |
| Eigur alls skuldlausar | 390 | 390 | |
| Mismunur | | | 610 |
| | | | Kr 2287,50 |

Þessi bóndi byrjaði búskap vorið 1891 og átti þá til eina 200 doll.—Þetta hefur hann nælt síðan.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Í Nýja Íslandi. | | | |
| h. Nr. 216, Björg Jónsdóttir, byrjaði búskap 188?: | | | |
| 1 kyr væn með hæsta verði 30 doll. | 30 | 50 | |
| Skuldlausar eigur | 30 | 30 | |
| Mismunur | | | 20 |
| | | | Kr. 75 |

Svona má heita að útreikningurinn sje nærri því, hvar sem gripið er ofan í skýrslurnar. Það verður þó ekki með sönnu sagt, að öll þessi dæmi, sem hjer eru sýnd, sjeu svo þung, að eigi megi komast frá þeim villulitið. — Að minnsta kosti þarf ekki neina sjerlega vandvirkni til að ganga betur frá þeim, en gjört er í skýrslunum. En það er ekki við miklu að búast af höf., að því er reikning snertir, því að á bls. 39 hjá nr. 7 í Vatnsdalsnýlendu leggur hann svo saman: 1 kýr og 1 uxi eru 3 nautgripir. Og á bls. 37 hjá nr. 25 í Álptavatnsnýlendu segir hann að 1 kýr sjeu samtals 2 nautgripir.

8. Efnahagsyfirlitið aptan við skýrslurnar bætir heldur ekki úr skak, því að þar koma fram allar vitleysurnar saman dregnar í eitt úr öllum skýrslunum og svo eðlilega nokkrar nýjar í viðbót; svo sem það, að nautpeningur er sagður samtals 6600, en er ekki eptir sjálfu efnahagsyfirlitinu nema 6596; verð jarðyrkjutóla í Argyle-nýlendu er talið alls 45,999 doll., en er ekki samtals nema 45,990 doll. eptir skýrslu þeirrar nýlendu; bændur eru taldir alls 636, en eiga að vera 637, o. fl. smávegis.

Meira er í það varið, að skuldlausar eigur í öllum nýlendunum til samans eru í yfirlitinu taldar ........................................ 905375 doll.
en eiga að vera eptir sjálfu efnahagsyfirlitinu ........................................ 860095 —
Mismunur 45280 doll.

eða kr. 169800, sem eigurnar eru taldar meira en þær eiga að vera.

Þetta má upplýsa með dæmi: Í öllum nýlendunum eru samtals eptir yfirlitinu

| | | | |
|---|---|---|---|
| 2281 kýr, | sem kosta alls | 75090,52 | d. |
| 897 uxar, | — — — | 56062,50 | — |
| 3115 ungneyti, | — — — | 59815 » | — |
| 489 hestar, | — — — | 61125 » | — |
| 4546 kindur, | — — — | 24639,32 | — |
| 528 svín, | — — — | 4752 » | — |
| 6443 fuglar | — — — | 1610,75 | — |
| Verð landa og húseigna alls | | 623397 » | — |
| — — jarðyrkjutóla | | 74153 » | — |
| Allar eigurnar eru þannig | | 980655 | doll. |
| og þegar skuldir eru frádregnar, sem skýrslurnar telja | | 120560 | — |
| Verða eptir skuldlausar eignir | | 860095 | doll. |

Verð á lifandi peningi er meðalverð það, er höf. sjálfur gefur upp í athugasemdunum aptan við skýrslurnar. Og þótt það, ef til vill, ekki sje alveg nákvæmt, þá getur munurinn ekki orðið mikill.

Um skuldlausar eigur hvers bónda að jafnaði í öllum íslenzkum nýlendum í Canada — sem höfundurinn telur 5273 krónur — er ekki vert að tala, því að það er svo mikil fjarstæða, að hún nær engri átt. Það nægir í því tilliti, að benda á sum dæmin hjer að framan, sem sýna, á hve gildum rökum gróði þeirra manna er byggður. Einnig mætti til færa mörg dæmi önnur úr skýrslunum upp á þetta, svo sem t. a. m. nr. 6 í Þingvallanýlendu, Ólaf Hall. Hann á ekkert til nema, ef til vill, einhvern kofa og land, sem hann hefur ekki snert hendi við enn. Þetta er samt virt á 610 doll., eða 2400 kr. Hann byrjaði búskap vorið 1891 og á eptir því að hafa grætt 2400 kr. á nokkrum mánuðum, en það er hverjum manni ljóst, að slíkur gróði er að eins til á pappírnum. Maðurinn er vitanlega samu öreiginn eptir sem áður, þó honum sjeu eignaðir þessar krónur, sem hann eigi á.

9. Eins og tekið hefur verið fram í blöðunum, og getið er hjer að framan, sjest það meðal annars af efnahagsyfirlitinu, að »stofnfje«, o: peningar þeir, er bændur áttu, þegar þeir byrjuðu búskapinn, er tvítalið, það er með öðrum orðum bæði talið sem eign og gróði. — Sem eign felst stofnfjeð auðvitað í þeim skepnum eða munum, sem bændur hafa keypt fyrir það, og er það rjett — En það er aptur á móti ekki rjett, að telja það gróða, því að »stofnfjeð« var til, þegar búskapurinn byrjaði, og getur því ekki verið grætt á honum. Þetta er nú samt gjört í efnahagsyfirlitinu. —

Frá »eigum alls«.......................................... 1025935 doll.
eru að eins dregnar skuldir ............................ 120560 —
og afganginum ............................................... 905375 doll.

skipt svó með bændatölunni og meðaltali af búskaparárum þeirra og með þeirri aðferð fæst út »meðal árlegur gróði«, sem svo er nefndur, hvers bónda, eða 372,88 doll. En þetta er rangt. Til þess að finna út gróðann, á ekki að eins að draga skuldirnar, heldur einnig stofnfjeð frá eigunum. Stofnfjeð er talið alls ............................................ 65187 doll.
þegar því er bætt við skuldirnar............................................................... 120560 —
þá koma út .................................................................................... 185747 doll.
sem dregnir frá eigunum gefur 840188 doll. »gróða«, ef gróða skyldi kalla. — Það mundu víst allir Íslendingar óska þess af heilum hug, að landar þeirra í Canada ættu allt þetta fje í raun og veru, en villurnar og misreikningarnir í skýrslunum sjálfum draga svo hraparlega úr þeim glæsilegu hugmyndum.

Það hefur nú verið sýnt með talsverðum rökum, að hagskýrslur þessar eru hvorki eins greinilegar eins og þær láta í fljótu bragði og því síður eins áreiðanlegar og búast hefði mátt við af manni, sem sjálfur hefur rannsakað efnahaginn. — Þær eru því síður en ekki þess verðar, að nokkur trúnaður sje lagður á þær í heild sinni. Það kann reyndar vel að vera, að eitthvað sje satt í þeim, en af því það vanta tæki til að vinsa það úr, þá verður óhultast og öruggast að byggja ekkert á þeim og fara ekki í neinu eptir þeim. Enda verður ekki betur sjeð, en að bæklingurinn allur í heild sinni sje ekki saman tekinn til þess, að gefa mönnum sanna og greinilega hugmynd um efnahag landsmanna í Canada, og hrinda þeim efa, sem dreginn hefur verið á það á Íslandi; að hann »sje eins góður og hann í raun og veru er«. Hafi þessi »efi«, sem höf. talar um, átt sjer stað hjer á landi allt til þessa, þá eru skýrslurnar einmitt ágætt meðal til að styrkja hann framvegis, en ekki veikja, — því að það segir sig sjálft, að hefði höfundinum þótt ástand landa í Canada eins glæsilegt eins og hann vill gefa í skyn með »hagskýrslunum«, þá hefðu þær farið nær hinu sanna en þær gjöra. En honum mun ekki hafa þótt ástandið nógu gott, til þess að hagskýrslur hans yrðu eins frambærilegar og tælandi, eins og hann óskaði og áleit nauðsynlegt, til að fara vel með sitt pund.

Útgefandi: Halldór Jónsson.

Prentsmiðja Ísafoldar. — 1893.

